# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, APRÍL 1903. NR. 2.

## *Jesus, Lover of my Soul,*

**í nýrri þýðing eftir hr. Jón Runólfsson.**

(Með sínu lagi.)

1. Jesús, ást þín öll mér skín;
opinn faðm þinn hríf mig í.
Rýkr hrönn og geyst við gín,
gnýja fár-myrk þrumuský.
Mig þín hylji mildin há
meðan stormsins dynja grönd,
land upp síðan leiði á
lausnarhönd þín mína önd.

2. Hvergi skjól eg annað á;
örmœdd sál mín ferst án þín.
Vík mér ei hér einum frá,
einka-stoð og huggun mín.
Á þér hvílir allt mitt traust;
eg á þínar náðir flý.
Ver þú barn þitt varnarlaust
vængja þinna skugga í.

3. Þú ert, guðs son, herra hár,
hjálpráð eitt, er nœgir mér.
Leið hinn blinda, lækna sár,
ljá þeim hönd, er fallinn er.
Eilíft, heilagt er þitt nafn,
afrek mitt er vonzku-dáð;
stend eg veill með synda-safn;
sannleiks ert þú ljós og náð.

4. Líknar-nœgð þú ljómar af—
líkn að hylja mína sekt;
elsku þinnar opna haf,
íklæð hreinleik hjartans nekt.
Herra, þú ert lífsins lind,
lát mig þyrstan bergja' af þér;
þvo burt minnar sálar synd,
svala þú um eilífð mér.

---

## Vísindalegar mótsagnir.

Í fyrra flutti dr. Frederic Delitzsch, hálærðr Þjóðverji og og meðal annars frægr fyrir lærdóm sinn í Assýríu-frœði, fyrirlestr í Berlin frammi fyrir Vilhjálmi Þýzkalandskeisara og fjölda annarra stórmenna um ,,Babel og biblíuna". Um þann fyrirlestr var ákaflega mikið rœtt og ritað á eftir. Þar komu fram mjög sterk mótmæli gegn guðlegum innblæstri gamla testamentisins, og voru þau mótmæli, komandi frá svo viðrkenndum vísindamanni, hið mesta fagnaðarefni áhangendum hinnar vantrúuðu biblíu-,,kritíkar", en kristinni trú hins vegar til hneykslunar. Höfundr fyrirlestrs þess hefir löngu áðr verið kunnr fyrir skynsemistrúarstefnu sína, þar sem faðir hans aftr á móti, dr. Franz Delitzsch († 1890), var jafnt frægr fyrir lærdóm sinn og fastheldni sína við trúna á Jesúm Krist og biblíuna sem guðs orð. Nú aftr í byrjan þessa árs fékk Frederic Delitzsch áskoran frá keisaranum til að flytja annan fyrirlestr í höfuðstað Þýzkalands um sama efni, og það gjörði hann. En þetta síðara erindi hans gekk enn lengra í vantrúaráttina en hið fyrra [illegible] keisara, sem er trúaðr kristinn maðr, en þó í [illegible] mjög frjálslyndr, það keyra fram úr öllu hófi. Og [illegible] gat ekki á sér setið með að koma sjálfr opinberlega fram með mótmæli gegn þessum vísindalegu og vantrúuðu kenningaröfgum.

Mergrinn málsins í þessum nýja fyrirlestri hins þýzka prófessors er það, að gamla testamentið hafi enga opinberan inni að halda snertandi Jesúm sem hinn fyrirheitna Messías,

enda liggi alls engin yfirnáttúrleg opinberan til grundvallar fyrir guðstrú gamla testamentisins, heldr sé hún í fyrstu upprunnin hjá Babyloníu-mönnum og hafi þaðan komið til Hebrea.

En skömmu síðar flutti annar hálærðr maðr í fornfræðum Assýra og Babyloníu-manna, dr. Hilprecht frá Philadelphia, fyrirlestr í Leipzig á Þýzkalandi um náskylt efni; og þó að sá fyrirlestr væri í rauninni alls ekki stýlaðr á móti hinum vísindalegu kenningum dr.s Delitzsch, þá komst hann þar þó, að því er trúarbrögðin snertir, að algjörlega gagnstœðri niðrstöðu. Hilprecht er upphaflega lærisveinn hins eldra Delitzsch, heyrir lútersku kirkjunni til, var áðr einn af kennurum háskólans í Philadelphia, og þaðan var hann fyrir fjórtán árum gjörðr út til að standa fyrir útgreftri og rannsóknum eldgamalla borgarústa austr í Mesopotamíu. Hefir það fyrirtœki verið ákaflega ervitt og haft afar mikinn kostnað í för með sér. En árangrinn er stórkostlegr, og almennt er Hilprecht nú talinn skara fram úr öllum samtíðarmönnum sínum að þekking og skarpskyggni í þeim sérstöku austrlenzku vísindum, sem hann hefir lagt stund á. Hann er og hefir lengi verið með í ritstjórn Philadelphia-blaðsins ,,Sunday School Times". Fjöldi ritgjörða eftir hann hafa þar birzt á seinni árum um rannsóknir þær, sem gjörðar hafa verið í löndum þeim, er helzt snerta hina helgu sögu biblíunnar. Og nú fyrir fám vikum er bók ein mikil um allar þær rannsóknir á nítjándu öldinni komin út í Philadelphia. Aðal-höfundr þess ritverks er Hilprecht, en samverkamenn hans hafa þar verið þessir fjórir lærðu Þjóðverjar: Benzinger (hann ritar um rannsóknirnar í Gyðingalandi), Hommel (Arabíu), Jensen (rannsóknir, er snerta sögu Hetíta) og Steindorff (Egyptaland). Hinn enski titill bókarinnar er: ,,Explorations in Bible Lands during the Nineteenth Century". Hún er gefin út af Holman & Co. og kostar 3 doll.

En út af fyrirlestri Hilprechts, þeim er hann flutti í Leipzig, komst þýzka tímaritið ,,Der alte Glaube" svo að orði:

,,Svo háar vonir sem vér gjörðum oss fyrirfram um Hilprecht, þá gjörði hann þó betr en vér bjuggumst við. Þótt

hann hafi komið svo miklu til leiðar á svæði sinna sérstöku vísindalegu rannsókna, þá talaði hann þó látlaust og blátt áfram, með virðulegri gætni, sem laus var við allan sérgæðingshátt og sjálfsþótta; en það, sem vér einkum viljum leggja áherzlu á, var það, að út úr orðum hans skein glóandi trúaráhugi, sem þegar í stað dró að sér hjörtu áheyrendanna. Það þurfti ekkert smávegis áræði til þess að tala í anda Esajasar og Jeremíasar frammi fyrir mönnum þeim, er alls engan trúargrundvöll kannast við. En það einmitt gjörði þó Hilprecht. Í inngangsorðum erindis síns gjörði hann þá játning, að þrátt fyrir allt, sem hinir hálærðu meistarar í gamla testamentis frœðum héldi fram, hefði hann aldrei séð svo sterkar sannanir fyrir fullkomnum og óhagganlegum áreiðanlegleik spádómanna þar eins og í rústunum í elzta menntalandi heimsins, héraðinu mikla milli fljótanna Evfrat og Tígris, sem vér, nútíðarinnar fólk, hljótum að kalla ,,ey hinna dánu manna''. En ekki að eins inngangr fyrirlestrsins, heldr líka hann allr, varpaði fyllilega ljósi yfir boðskap spámananna í ritningunni. [Í spádómsbók Esajasar—14, 12—lesum vér:] ,,Hvernig ert þú af himni ofan fallin, þú hin fagra morgunstjarna? Hvernig ert þú til jarðar niðr hrunin, þú, sem varla virtir þjóðirnar viðlits?'' Þessi dómsorð spámannsins (yfir Babylon) komu sem bergmál út úr rústardyngjum þeim, sem sýndar voru af fyrirlesaranum bæði með orðum og myndum. En enn þá meira áræði þurfti þó til þess að vitna á móti hinum gustmiklu heilabrotum annars eins manns og Frederics Delitzsch og með því að mana fram á móti sér ofsa allra vísindalegra rannsóknaranda í Þýzkalandi. En ekki heldr hér hikaði Hilprecht sér við að láta í ljósi fasta og óhagganlega sannfœring sína frammi fyrir hinum fjölmenna áheyrendaskara. ,Þar sem nýlega hefir tilraun gjörð verið' — sagði hann —, til þess að leiða hina hreinu eingyðistrú Ísraels út úr babylonskum uppsprettum, þá er eg til þess knúðr að lýsa yfir því, samkvæmt fjórtán ára rannsóknum mínum á fleygletrs-rúnamáli Babyloníumanna, að það er með öllu ómögulegt. Trú hins útvalda lýðs drottins hljóðar svo: Heyr, Ísrael: drottinn vor guð er sá einasti guð. Og sú trú gat aldrei komið frá hinu

babylonska goðafjalli, því ömurlega beinahúsi rotnunar og dauða?'

,,Slíkt trúarhugrekki er orðið sjaldgæft í Þýzkalandi. En því fremr fögnum vér yfir því, að Hilprecht kom opinberlega fram til þess með svo heitum og einbeittum orðum, að halda uppi friðhelgi hins opinberaða sannleika.''

það, sem ber á milli í skoðunum þeirra Hilprechts og Delitzsch viðvíkjandi uppruna guðstrúarinnar í Ísrael, snertir gamla testamentis ,,kritík'' nútíðarinnar í hennar dýpstu rót. Og fæst hér bending um það, að ,,niðrstaða'' sú, sem guðfrœðis-,,vísindamennirnir'' á Íslandi hafa verið að prédika í seinni tíð, muni ekki vera svo alveg fullsönnuð og óyggjandi.

Annars hefir Delitzsch út af mótmælum þeim, sem kenningar hans um uppruna Mósesar-lögmáls urðu fyrir, til stórra muna dregið úr þeim staðhœfingum sínum. Hann kveðst nú ekki vilja halda því fram, að það lögmál eigi rót rína að rekja til Babyloníumanna, heldr að eins, að inn í það hafi slœðzt babylonskar hugmyndir.

---

## Hvers vegna trúi eg á Jesúm Krist?

Eftir hr. guðfrœðis-kandídat Jón Þorvaldsson.

Eins og kunnugt er þá er Jesús Kristr aðal-hyrningarsteinn kristindómsins, og með trúnni á guðdóm hans stendr kristindómrinn og fellr. Ef sú trú er sönn, þá er engum vafa undirorpið, að kristindómrinn er sannleikr og hin kristilega kirkja er grundvölluð á óbifanda bjargi. En ef sú trú reyndist ósönn, þá er það á hinn bóginn deginum ljósara, að kristindómrinn er ekki sannleikr, og kristin kirkja væri þá á sandi byggð. En þar sem trúin á guðdóm Jesú Krists hefir slíka þýðing fyrir kristindóminn, þá er það augljóst, að það stendr engan veginn á sama, hvernig vér stöndum gagnvart þessu atriði trúar vorrar; það stendr engan veginn á sama, hvort vér trúum á guðdóm Jesú, eða eigi. En þó sýnir dagleg reynsla, að þeir eru svo sorglega margir, sem láta sér standa á sama um þetta, og ganga fram hjá Jesú, rétt eins og hann

kœmi þeim ekkert við. Í tölu slíkra manna eru eigi að eins hinir opinberu, svörnu óvinir kristindómsins, heldr og margir þeir, sem þykjast kristnir og telja sig í lærisveinaflokki Jesú Krists. En svo óskiljanlegt sem þetta virðist vera, þá er það þó, þegar vel er að gætt, svo auðskilið. Það stafar að sumu leyti af kæruleysi og hugsunarleysi, en að sumu leyti af hinni skaðlegu tilhneiging manna til að draga sjálfa sig á tálar. En sérhver alvarlega hugsandi maðr ætti sannarlega ekki að láta þessar hindranir verða þröskuld á vegi sínum, heldr ætti hann að setja sér Jesúm Krist sem bezt fyrir sjónir, virða fyrir sér kenning hans, störf og líferni, til þess svo að geta gefið sjálfum sér sem áreiðanlegast svar upp á spurninguna: Hvað virðist þér um Krist? — þá spurning, sem hver hugsandi maðr hlýtr að skoða sem hina þýðingarmestu lífsspurning, er hann fær lagt fyrir sjálfan sig. Ýms af orðum Jesú eru líka þess eðlis, að engum getr staðið á sama um, hvort þau eru sönn eða ekki. Eg vil nefna önnur eins orð eins og þessi: ,,Eg em vegrinn, sannleikrinn og lífið; enginn kemr til föðursins nema fyrir mig.'' Öllum þeim, sem ekki trúa á Jesúm sem drottin sinn og herra, væri auðvitað illa við það, ef sá vegr, sem hann hefir vísað á, væri eini vegrinn til himins. Og ekki væri þeim betr við það, að Jesús væri sannleikrinn og lífið, þannig, að dauðinn yrði hlutskifti allra þeirra, sem ekki vildi aðhyllast hann. Og þótt það, ef til vill, þyki mikið sagt, þá get eg vel ímyndað mér, að margir vildi gefa mikið til, að þessi orð væri lygi. En þess er vel að gæta, að sannleikr þessara orða stendr og fellr engan veginn með því, hvort þau eru geðfelld eða ógeðfelld hinum náttúrlegu tilfinningum vorum, heldr stendr hann og fellr með því, hvort Jesús hefir haft vald til að tala þau eða ekki. En slíkt vald er óhugsanda að hann hafi haft nema því að eins, að hann jafnframt því, sem hann var sannr maðr, hafi einnig verið sannr guð. En hér stöndum vér frammi fyrir hinum mikilvæga leyndardómi guðhræðslunnar, eins og postulinn Páll kemst að orði, er hann segir: ,,Vafalaust er þessi leyndardómr guðrœkninnar mikilvægr: Guð birtist í holdinu, er réttlættr af andanum, sén af englunum, boðaðr meðal

heiðinna þjóða, meðtekinn í trúnni í heiminum, upp numinn í dýrð" (1. Tím. 3, 16). Sannarlega er allt þetta leyndardómr. Allr kristindómrinn er leyndardómr, óskiljanlegt, dásamlegt kraftaverk. Vér höfum, ef til vill, aldrei veitt þessu fullkomna eftirtekt; og stafar það af því, að vér vorum svo ungir, þegar þetta kraftaverk varð fyrst á vegi vorum. Vér vorum ekki gamlir, þegar mamma okkar sagði oss fyrst frá hinum himinborna jólagesti, hvernig fœðing hans hafi orðið gjörvöllu mannkyninu til blessunar. Vér trúðum þá á hann af því að vér vissum, að hún sagði oss ekki annað en það, sem satt var. En svo inndæl og dýrmæt sem barnatrúin er, þá á það þó við um hana, sem Páll postuli segir á einum stað: „Þegar eg var barn, talaði eg sem barn, var lyndr eins og barn og hugsaði sem barn; en þegar eg varð fullorðinn, lagði eg af bernskuna" (1. Kor. 13, 11). Ef trúin á guðdóm Jesú Krists á að verða persónuleg eign vor, sannarlegt lífsafl fyrir oss, þá megum vér eigi grundvalla hana á því, sem oss hefir verið sagt, eða vér höfum lært. Hún verðr þá að grundvallast á eigin sannfœring og persónulegri lífsreynslu. Hin mikla spurning, sem hver og einn þarf því að leggja fyrir sig, er þessi: Hvers vegna trúi eg á Jesúm Krist? Þessari spurning vil eg nú, fyrir mitt leyti, leitast við að svara. Skal eg engan draga á því, að svar mitt verðr á þessa leið: Eg trúi á Jesúm Krist af því að eg hefi bæði ytri og innri vitnisburði, sem eru mér fullnœgjandi trygging fyrir því, að hann er sá, sem hann sagðist vera: guðs eingetinn sonr, ímynd veru hans og ljómi dýrðar hans (Hebr. 1, 3).

Eg vil þá fyrst snúa mér að hinum ytri vitnisburðum, og leitast við að sýna fram á, hvernig allt það, sem vér vitum um Jesúm Krist, orð hans, störf og líferni, staðfestir guðdóm hans. Það gefr að skilja, að eg hlýt hér að styðjast við heimildarrit; og þau heimildarrit, sem þá fyrst verða fyrir mér, eru hin fjögur guðspjöll nýja testamentisins, með því líka þau eru hin einu áreiðanlegu heimildarrit, þegar rœða er um Jesúm Krist, kenning hans, störf og líferni. Reyndar hafa ýmsir á síðari tímum reynt að vefengja áreiðanleik þessara heimildarrita vorra, og því hefði, ef til vill, verið réttara af mér að

byrja á því að leiða rök að ritvissu og áreiðanlegleik guðguðspjallanna. En þetta myndi verða allt of langt mál, og því hefi eg leitt það hjá mér. Eg læt mér nœgja að benda öllum þeim, sem eru vantrúaðir á áreiðanlegleik guðspjallanna, á hina svo kölluðu „hærri biblíu-*kritík*". Slíkar rannsóknir hafa staðið yfir á síðustu tímum, og standa yfir enn í dag. Nú er gamla testamentið í hreinsunareldinum, en nýja testamentið er flogið út úr honum að öllu leyti með ósviðnar fjaðrir. Þessar biblíurannsóknir hafa, að því er nýja testamentið snertir, verið framkvæmdar af óvinum kristindómsins í því skyni, að ryðja honum úr vegi; en þegar vér nú hugsum um, hver niðrstaðan hefir orðið, þá koma oss ósjálfrátt í hug orð Jósefs til brœðra sinna: „Þér ætluðuð að gjöra mér illt, en guð sneri því til góðs" (1. Mós. 50, 20). Vér sjáum einnig í biblíurannsóknum þessum guðs forsjónar hönd, er lætr óvini kristindómsins verða verkfœri í sinni hendi til þess að styrkja vini kristindómsins í trúnni á sannleik hans. En þar sem nú hin vísindalega rannsókn hefir engan veginn raskað áreiðanlegleik guðspjallanna, þá megum vér treysta því, að sú Jesú-mynd, sem þau draga upp fyrir oss, er veruleikanum samkvæm. Vér höfum eflaust allir veitt því eftirtekt, að þegar málarar eða myndasmiðir búa til myndir af Jesú, þá einkenna þeir þær vanalega frá öðrum myndum með geislabaug umhverfis höfuðið. Sá geislabaugr er tákn hinnar guðdómlegu geisladýrðar, sem ljómar frá persónu Jesú, hvort heldr vér virðum fyrir oss orð hans eða líferni.

Það, sem sérstaklega vekr undrun vora og aðdáun, þegar vér virðum fyrir oss orð Jesú, er sá öruggleiki, sem hvervetna hvílir yfir þeim. Það er aldrei hik á honum, og hann er aldrei í minnsta vafa um það, sem hann segir. Hvort heldr hann framsetr grundvallarlög guðs ríkis fyrir tiltilheyrendr sína, eða útlistar leyndardóma þess fyrir lærisveinum sínum, eða ver sig fyrir árásum óvina sinna, þá hvílir sami öruggleiki yfir orðum hans. Kennslu-aðferð hans er nokkuð sérstök að því leyti, sem hann notar svo mikið samlíkingar og dœmisögur. En allar samlíkingar hans eru undr fagrar og vel valdar, og margar af dœmisögum hans eru, að dómi mestu vísindamanna, fegrstu perlurnar í heimsbókmenntunum.

Hann vitnar um sjálfan sig og segir það hiklaust, að hann sé guð, og fyrir þau orð sín lét hann líf sitt; því þetta var hið eina, sem óvinir hans gátu fundið honum til saka. Hann hefir og talað mörg þau orð, sem ekkert gildi hafa nema því að eins, að guðdómlegt vald standi bak við þau. Hvernig gæti t. d. nokkur dauðlegr maðr, sem ef til vill væri að eins lítið fullkomnari en eg eða þú, talað önnur eins orð og þessi: „Komið til mín, allir þér, sem erviðið og þunga eruð hlaðnir; eg mun veita yðr hvíld" (Matt. 11, 28)? Eða þessi: „Allt vald er mér gefið á himni og jörðu. Farið því og gjörið allar þjóðirnar að lærisveinum, skírandi þá til nafns föðursins og sonarins og hins heilaga anda. Og sjá, eg em með yðr alla daga, allt til enda veraldarinnar" (Matt. 28, 19)? Slík orð sem þessi hlyti í munni sérhvers dauðlegs manns að vera, ef ekki lygi, þá að minnsta kosti meiningarlaust skrum. Það er að eins guð, sem svona getr talað. Þá má og minna á hin eftirtektarverðu orð Jesú í Jóhannesar guðspjalli, 14. kap.: „Trúið á guð og trúið á mig." Hér heimtar hann skilyrðislaust tilbeiðslu vora, og væri slíkt óhugsanlegt, ef hann hefði ekki verið sér þess meðvitandi, að hann var sannr guð, jafnframt því að hann var sannr maðr.

Þannig fáum vér þá af orðum Jesú, svo framarlega sem þau eru sönn, órækan vitnisburð um guðdóm hans. En nú get eg búizt við því, að efinn vakni, sem er svo ríkr í brjóstum margra. Eg get búizt við því, að þeir segi sem svo: Mér er eigi nóg að vita það, að Jesús hafi talað þau orð, sem óhjákvæmilega hljóta að leiða til trúarinnar á guðdóm hans; eg þarf einnig að fá vissu fyrir því, að hann hafi sagt satt. En hvar get eg fengið þá vissu? Hvar get eg fengið óyggjandi vissu fyrir sannsögli Jesú?—Áðr en eg svara þeirri spurning vil eg taka það fram, að hafi Jesús eigi sagt satt, þegar hann vitnaði um sjálfan sig, þá getr að eins verið um tvennt að ræða. Annaðhvort hefir Jesús sagt annað um sig og köllun sína en hann vissi satt vera, eða hann hefir sjálfr verið blekktr af rangri ímyndun og þess vegna sagt annað en satt var. Í fyrra tilfellinu hefði Jesús verið svikari og lygari, sem enginn gæti borið virðing fyrir, en í síðara tilfellinu ringltrúarmaðr.

En hvorttveggja þetta er óhugsanlegt og ómögulegt, og er líferni hans og athafnir hin tryggasta sönnun fyrir því. Vér undrumst orð Jesú og kenning. Vér dáumst að siðalærdómi hans, sem enda mótstöðumenn kristindómsins kannast við að sé hinn háleitasti og fegrsti, sem hugsazt getr. En þó er það jafnvel hvorugt þetta, sem hefir hafið nafn Jesú yfir öll nöfn og gefið honum tign, sem allri tign er œðri, heldr er það hið fullkomna samrœmi, sem á sér stað hjá honum milli kenningar og breytni. Hjá oss mönnunum vill það oft reynast svo, að eitt er að tala, annað að gjöra. Margir beztu siðfrœðingar hafa breytt þveröfugt við það, sem þeir kenndu. Mannkynssagan sýnir oss svo mörg dœmi því til sönnunar. Hinn frægi gríski spekingr Sókrates, sem vér þekkjum sennilega allir, kenndi vel um skírlífi, en heimilislíf hans var allt annað en fagrt. Hinn mikli heimspekingr Rómverja, Cicero, hefir ritað bók um að menn eigi ekki að óttast dauðann, en flýði þó sjálfr til þess að forða lífi sínu. Heimspekingrinn Seneca ritaði bók um yfirburði fátœktarinnar, um leið og hann sjálfr hallaði sér upp að gullborði. Hvílíkr meginmunr er á þessum mönnum og Jesú Kristi. Enginn hefir getað sýnt fram á það, að hann í nokkru minnsta atriði hafi breytt gagnstœtt því, sem hann talaði og kenndi. Og svo fagrt, hreint og fullkomið var líf hans, að hann, umkringdr af mótstöðumönnum sínum, spurði með fullri djörfung: ,,Hver yðarget r sannað upp á mig synd?“, — án þess að nokkur yrði til þess að mótmæla honum. Óvinir hans, sem höfðu vakandi augu á honum, hvar sem hann fór og hvað sem hann gjörði, gátu ekkert fundið honum til saka, nema það eitt, að hann hefði gjört sig að guði, og fyrir það fá þeir hann dœmdan til dauða. Jafnvel sjálfr dómarinn, hinn heiðni maðr Pontíus Pílatus, sem svo hörmulega lítið hirti um sannleik og réttlæti, vitnar um sakleysi hans, og sama gjörði lærisveinninn, sem sveik hann. Með allt þetta fyrir augum skilst oss það svo vel, að Pétr postuli gat sagt um Jesúm: ,,Hann drýgði ekki synd, og ekki eru svik fundin í hans munni“ (1. Pét. 2, 22) — og þá allra sízt þau, að segja annað um sjálfan sig og köllun sína en hann vissi sannleikanum samkvæmt.

En þó að Jesús hafi nú ekki vísvitandi sagt ósatt, er það þó ekki hugsanlegt, að hann hafi gjört það óafvitandi, blekktur af rangri ímyndun, og hafi þannig verið ringltrúarmaðr? Slíkt er óhugsanlegt, og vitna það auk annars athafnir hans. Hvað sem Jesús aðhefst, þá finnum vér aldrei hjá honum þann ákafa og ofstopa, sem er einkenni ringltrúarmanna. Geðshrœringarlaus er hann reyndar ekki. Vér sjáum, að hann hryggist, gleðst, og reiðist af heilagri vandlæting. En ávallt hefir hann fullkomið vald yfir geðshrœringum sínum. Ekki finnum vér hjá honum trú á drauma eða fyrirburði, sem ringltrúarlífið er svo auðugt af ; og með því að bera líf hans saman við líf einhvers þess ringltrúarmanns, er vér þekkjum, getum vér bezt sannfœrzt um, hvílíkt djúp er staðfest á milli hans og þeirra.

Af því, sem hér að framan er sagt, vona eg að það verði ljóst, að bæði líferni Jesú og kenning vitnar um guðdóm hans. Eg hefi enn þá gengið fram hjá kraftaverkunum, sem margir telja svo þýðingarmikil, og vitna þegar til, ef þeir vilja leiða rök að guðdómi Jesú. Eg hefi gjört það vegna þess, að mér finnst kraftaverkin eigi hafa eins mikið sönnunargildi og almennt er álitið. Það eru fleiri en Jesús, sem hafa gjört kraftaverk. Móses gjörði kraftaverk, þegar hann framleiddi vatnið á eyðimörkinni, með því að slá staf sínum á hellusteininn. Spámaðrinn Elísa gjörði kraftaverk, þegar hann lífgaði son ekkjunnar í Súnem. Margir af postulunum gjörðu einnig kraftaverk. En það er þó eitt kraftaverk Jesú, sem eigi verðr gengið fram hjá í þessu sambandi, með því að það er svo sérstakt í sinni röð. Þetta kraftaverk er upprisu-undrið. Vér eigum hér líka því láni að fagna, að upprisa Jesú er sem sögulegr atburðr eins vel rökstudd og nokkur sögulegr atburðr getr verið. En eins og kunnugt er, þá er á þeim atburði grundvölluð trúin á Jesúm Krist sem sigrvegara dauðans og lávarð lífsins.

En allir þessir ytri vitnisburðir, sem trúin á guðdóm Jesú Krists styðst við, geta eigi orðið fullnœgjandi fyrir einstaklinginn, nema því að eins að innri vitnisburðir hjarta hans bœtist við. Til þess að geta trúað á Jesúm Krist verð eg að hafa

reynt það í lífi mínu, að hann einn fullnœgi hinni dýpstu þrá hjarta míns, og að hjá honum einum sé hvíld og frið að finna. En hvorttveggja þetta vitna eg glaðr, samkvæmt hinni litlu lífsreynslu minni.

Þegar eg skoða mitt eigið líferni í ljósi Jesú orða og ber það saman við hans eigið líferni, þá opnast eins og nýr hugmyndaheimr fyrir mér. Eg sé, hversu mjög líf mitt er fjarlægt fullkomnunar-takmarkinu. Eg sé, hve fjarlægt það er hinu sanna lífi, lífinu eftir guðs hjarta. Mér skilst þá fyrst, að hugtakið synd og sekt er enginn skáldskapr, heldr sárasti veruleiki. Og því betr sem eg skoða sjálfan mig, því meir hræðist eg mína eigin mynd. Vér höfum eflaust allir lesið Grettissögu. Vér munum svo vel eftir Gretti, ógæfumanninum mikla, sem hamingjan hafði svo mjög snúið bakinu við, að allt virtist verða honum til ama og armœðu. Vér eigum ervitt með að rekja orsakirnar til hins mikla gæfuleysis hans. En meginþátt í því hafa eflaust átt hin voðalegu Gláms-augu, sem jafnan grúfðu yfir honum eftir viðreign þeirra, þegar hann var aleinn eða í myrkri staddr. Það kann að vera, að þetta um Gláms-augun sé ekkert annað en skáldskapr ; en það er þó sá skáldskapr, sem á erindi til vor allra. Gláms-augun, sem ávallt hvíldu yfir Gretti, eru tákn syndarinnar og syndasektarinnar, sem jafnan grúfir yfir oss. En eins og Grettir ekki sá Gláms-augun, þegar hann var með öðrum eða í dagsbirtunni, þannig dylst synd vor og sekt oft fyrir oss, þegar birta heimslánsins ljómar umhverfis oss, eða þegar vér hrífumst áfram af glaumi og gjálífi mannlífsins. En svo þegar vér erum einmana og samvizkan vaknar og nær að ásaka oss, eða svartnætti gæfuleysisins skyggir umhverfis oss, þá birtast aftr Gláms-augun í sinni voðalegu mynd. En hver sem einu sinni hefir séð þessi voðalegu augu, er jafnan grúfa yfir honum, þráir eins og Grettir um fram allt að losna við þau, og hann hungrar jafnan og þyrstir eftir þeirri lausn. En þegar eg er að hugsa um það, hvernig eg geti losnað við þau augu, þá heyri eg þessi himnesku orð Jesú : „Hver sem kemr til mín, hann skal aldrei hungra, og hvern, sem trúir á mig, mun að eilífu eigi þyrsta.“ Og af sömu ástœðum og sár-

þyrstr vegfarandi drekkr af hinni fyrstu svalalind, sem verðr á vegi hans, flý eg til Jesú. Fyrir friðþæging hans og frelsandi náð öðlast eg svo gjöf heilags anda, og frœkorn nýs lífs verðr gróðrsett í hjarta mínu. Þetta köllum vér endrfœðing. En með því að endrfœðingin er eingöngu verk heilags anda, þá er hún í innsta eðli sínu óskiljanlegt kraftaverk. En þegar frœkorn hins nýja lífs er fyrir skírnina gróðrsett í hjarta mínu, þá er það á minu valdi að hlúa að því, og það gjöri eg, þegar eg hafna lífinu eftir holdinu, en keppi stöðugt fram á helgunarvegi. Það gjöri eg, þegar eg hefi ávallt fyrir augum hina háleitu köllun, sem Jesús hefir fengið öllum lærisveinum sínum, þar sem hann segir: ,,Þér eruð salt jarðarinnar; þér eruð ljós heimsins ; borg, sem stendr uppi á fjalli, fær eigi dulizt" (Matt. 5, 13—14). En kraftinn til þessa öðlast eg fyrir bœnarsamfélagið við guð, sem Jesú vegna er orðinn mér ástríkr faðir. Gláms-augun grúfa þá eigi framar yfir mér, og í stað hræðslunnar og óttans, er eg áðr kenndi, ríkir nú í hjarta mínu gleði og friðr, sá friðr, sem Jesús talar um, þegar hann í hinni guðdómlegu skilnaðarrœðu sinni segir við lærisveina sína : ,,Minn frið gef eg yðr; ekki eins og heimrinn gefr gef eg yðr. Hjarta yðar skelfist eigi né hræðist."

Með því, sem hér að framan er sagt, hefi eg viljað leiða rök að því, hvers vegna eg trúi á Jesúm Krist. Hvort þessi rök hafa verið fullnœgjandi fyrir þig, lesari góðr, það veit eg ekki. En það veit eg, að guði er enginn hlutr ómáttugr, og þá ekki heldr það, að láta þessi orð mín, sem í vanmætti eru fram borin, verða tll þess að kalla á einhvern. Og ef svo skyldi verða, þá vil eg gefa guði einum dýrðina. En það vona eg, og þess vildi eg óska, að þau hafi nœgt til þess að sannfœra þig um það, að það stendr engan veginn á sama, hvort þú trúir á guðdóm Jesú Krists eða ekki,— það stendr engan veginn á sama, hvort þú heldr aðhyllist hann eða hafnar honum.

Einhver hin eftirtektarverðustu orð, sem um Jesúm hafa verið töluð, eru orð öldungsins Símeons, þegar hann í musterinu sagði við Maríu, móður Jesú: ,,Sjá, þessi er settr til falls og til viðreisnar mörgum í Ísrael, og til tákns, sem móti verðr mælt." Þú getr, ef til vill, látið þér standa á sama um síðari hluta þessa spádóms, en um fyrri hluta hans er allt öðru máli að gegna. Þér getr ekki dulizt það, að svo framarlega sem orð Jesú: ,,Eg em vegrinn, sannleikrinn og lífið; enginn kemr til föðursins nema fyrir mig" eru sannleikr, þá er sá hluti spádómsins líka sannr. Jesús verðr þér þá annaðhvort

til falls eða viðreisnar; en hvort heldur hann verðr, það er á þínu valdi. Hin mikla barátta milli trúar og vantrúar, sem nú á tímum er háð, með jafnvel enn meiri ákafa en nokkru sinni áðr, er áþreifanlegt tákn þess, að augu manna eru að opnast fyrir því, að þeir geta ekki gengið afskiftalaust fram hjá Jesú Kristi, heldr hljóta að mynda sér ákveðna skoðun um hann, og samkvæmt henni skipa sér í flokk annaðhvort með vinum hans eða óvinum. En í hvorum flokknum ætlar þú að vera? Ef þér finnst, að þú með þeim rökum, sem þú hefir fyrir hendi, með engu móti getir trúað á Jesúm Krist og guðdóm hans, þá gakktu, kæri vinr, leiðar þinnar eins og svo margir, sem hér í lífi algjörlega gleymdu Jesú. Vera má, að þú finnir ekki, hvílíkt slys og fár þú hefir bakað þér með vali þínu, meðan lífssól þín skín í heiði og heimslánið brosir við þér. En þegar hamingjan hefir snúið bakinu við þér og vonarsól þín er döprum skýjum hulin, þá vekti það ekki undrun mína, þó að þú fyndir sárt til þess, hversu lífið er þungbært án Jesú og teldir þá stund sælasta, er guðs andi legði þér aftr orð bœnarinnar á varir, svo að þú gætir beðið með sálmaskáldinu:

,,Ó, gjör oss börn, og gef oss aftr jólin,
hin glöðu jól, með helgri barnatrú;
um miðja nótt þá rennr signuð sólin;
ó, sólar herra, ásján til vor snú!
Þín jólaljós, þó jarðnesk hverfi sólin,
í Jesú nafni skíni til vor nú''.*)

Guð gæfi, að sú stund mætti renna sem fyrst upp í lífi þínu, að þér auðnaðist að sjá Jesúm eins og hann er, sjá dýrð hans, dýrð sem hins eingetna föðursins. En þú, sem á hinn bóginn trúir á Jesúm Krist og guðdóm hans, og því skipar þér í flokk með vinum hans, vertu sannr flokksmaðr. Láttu hvorki hleypidóma heimsins né ótta fyrir mönnum hræða þig frá að þjóna honum opinberlega og helga honum alla þína krafta. Vertu ekki í flokki þeirra, sem að eins að nafninu eru kristnir, sem ekki hafa þor til þess að afneita honum opinberlega, en ekki heldr þrek til að fylgja honum eftir. Gjörðu ekkert annað að markmiði lífs þíns en þetta eina, að elska Jesúm og lifa fyrir hann; og því betr sem þér tekst að leiða lífsstraumana frá Jesú inn í gjörvallt líf þitt, því betr munt þú reyna með Páli postula, að þú þarft ekki að fyrirverða þig fyrir Krists fagnaðarerindi, því að það er kraftr guðs til sáluhjálpar sérhverjum, sem trúir.

---

*) Úr jólanætr-ljóðum séra Matt. Jokkumssonar frá 1890.—,,Sam.'' VI, 2.

—Nýkomið er út ágætt kver—*Exodus*—til skýringar 2. bók Mósesar eftir dr. R. F. Weidner, forstöðumann hins lútерska prestaskóla í Chicago, gefið út í þeim bœ af Fleming H. Revell Company. Eftir sama höfund eru áðr út komin nokkur rit líkrar tegundar til skýringar bókum nýja testamentisins, einnig 1. Mósesbókar. Hinn sameiginlegi titill rita þessara er *Studies in the Book*. Seinna eiga að koma skýringar annarra gamla testamentis rita.

Bœklingrinn, sem kemr með skýringar dr. Weidners á 2. bók Mósesar, er einkar hentugt rit fyrir sunnudagsskólakennara. Verðið er 50 cts.

Dr. Weidner aðhyllist vitanlega ekki staðhœfingar hinnar niðrrífandi og neitandi biblíu-,kritíkar'. Í formála kversins, sem þegar er um getið, segir hann meðal annars: ,,Margar kenningar, sem ýmsir þessara niðrrífandi biblíu-rannsakenda halda fram, gæti virzt eðlilegar í munni þeirra, sem neita tilveru persónulegs guðs, eða því, að guð geti opinberað sjálfan sig, eða þeirra, sem staðhœfa, að vér getum engri vissu náð um neitt, hvorki mannlegt né guðlegt, eða þeirra, sem hafa það fyrir satt, að guð opinberi sig að eins á náttúrlegan hátt, gegn um skynsemina og náttúruna;— en þegar þessum röksemdum er beitt af mönnum, sem játa trú á yfirnáttúrlega opinberan og sannleikann eins og hann er opinberaðr fyrir Jesúm Krist og í honum, þá lætr það undarlega í eyrum.''

Önnur bók stœrri, sem heitir *Theologia*, eftir sama höfund er einnig mjög nýlega komin út frá Fleming H. Revell útgáfu-félaginu. Þar er fram settr lærdómrinn um guð samkvæmt biblíunni og nákvæmlega sýnt, hvernig hann var skilinn í fornkirkjunni, á reformazíónartíðinni, og hvernig merkir guðfrœðingar hafi skilið hann allt fram á þennan dag. Bók þessi er einkar hentug fyrir guðfrœðisnemendr, enda aðallega þeim ætluð.

Það liggja fleiri ritverk eftir dr. Weidner en flesta guðfrœðinga lútersku kirkjunnar í Ameríku.

---

Fríkirkjusöfnuðrinn í Reykjavík hefir nú komið sér upp kirkju, sem kvað kosta nálægt tuttugu þúsundum króna—auk organs, er pantað hefir verið frá útlöndum og á að kosta 4½ þús. kr. Þetta mun vera einhver mesta kirkja á Íslandi. Rúmar um þúsund manns. Hún var vígð 22. Febrúar af séra Ólafi Ólafssyni, áðr presti í Arnarbœli, nú ritstjóra ,,Fjallkonunnar''. Hann á að verða prestr safnaðar þessa framvegis í stað séra Lárusar Halldórssonar, sem hefir þjónað söfnuðinum frá því hann myndaðist haustið 1899. ,,Í ráði kvað vera''

—segir „Þjóðviljinn“—„að raflýsa kirkjuna og kostnaðr við það áætlaðr um 2 þús. kr.“ Fólkstala safnaðarlima er sögð um eitt þúsund. Embættismenn og kaupmenn, sem bezt hafa peningaráð, eru ekki í hópi þessum. Má kirkjubygging þessi því teljast eigi lítið þrekvirki af söfnuðinum. Og hvað sem kann að mega segja um andlega lífið meðal þess fólks, þá virðist það þó með fyrirtœki þessu hafa sannað, að frjáls kirkja, valdstjórninni algjörlega óháð, geti, þrátt fyrir fátœkt almennings, þrifizt á Íslandi eins og í öllum öðrum löndum.

---

Íslenzka er nú viðrkennd sem regluleg námsgrein fyrir þá nemendr, sem þeirrar kennslu óska, í fyrsta og annars-árs deildum *College*-skólanna hér í Winnipeg. Snemma í þessum mánuði varð þetta eftir talsverða baráttu samþykkt með meiri hluta atkvæða af hinni sameiginlegu kennslumála-stjórnarnefnd þeirra skóla. Að undanförnu hefir sú námsgrein að eins verið leyfð í undirbúningsdeild Wesley-skólans með tilliti til Íslendinganna, er þar hafa stundað nám.—Væntanlega fær tunga vor hér enn meiri viðrkenning síðar.

---

Séra Friðrik Hallgrímsson á Útskálum hefir svarað prestskölluninni frá Argyle-söfnuðunum því, að hann taki henni. Hann býst við að koma hingað vestr í Ágústmánuði.

---

Þýðing sú eftir hr. Jón Runólfsson á enska sálminum *Jesus, Lover of my Soul*, sem birtist í þessu blaði, er ekki að öllu leyti ný. Sami maðr sneri sálminum fyrir nokkrum árum á íslenzku, og sú þýðing stendr í „Kennaranum“ III, 2 (Des. 1899). Þá þýðing hefir hann síðan endrskoðað og til stórra muna bœtt. Og þessi endrbœtta þýðing kemr nú í „Sam.“ Hinn enski frumhöfundr sálmsins er Charles Wesley († 1788). Hann er stór-frægr fyrir sálma-skáldskap sinn, og þessi sálmr er einn af hans allra ágætustu sálmum.

---



Hr. Ólafr S. T[illegible]eirsson, 644 William Ave., er féhirðir „Sameiningarinnar“.

„VERÐI LJÓS!“ [illegible]lega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar og Haralds Níelssonar í Reykjav[illegible] [illegible]ókaverzlan H. S. Bardals í Winnipeg og kostar 60 cents.

„EIMREIÐIN“, eitt fjölbrey[illegible] [illegible]mtilegasta tímaritið á íslenzku. Ritgjörðir, myndir, sögur, kvæði. Verð 40 cts. [illegible] Fæst hjá H. S. Bardal, J. S. Bergmann o. fl.

„ÍSAFOLD“, lang-mesta blaðið á Íslan[illegible] [illegible]t tvisvar í viku allt árið; kostar í Ameríku $1.50. H. S. Bardal, 557 Elgin Ave., Wi[illegible]eg, er útsölumaðr.

---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn“ fylgir með „Sam.“ í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans“ er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.“: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs.—Winnipeg.